# Sameiningin.

*Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga, gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vestrheimi.*

RITSTJÓRI *JÓN BJARNASON.*

9. árg. WINNIPEG, APRÍL 1894. Nr. 2.


## Vorvísur

eftir *B. S. Ingemann.* Þýðing eftir séra Mattías Jokkumsson.

(Lagið eftir Weyse.)

Nú angar blóm hjá blómi, nú ljómar loft og jörð,
og ljúfir fuglar kveða sætt á greinum;
nú opnast allar felur, sem frostin bundu hörð,
og fiðrildin gægjast undan steinum.

Guð fæðir maðk í mold, því hann öllum skepnum ann.
og akrblómin fegrð skrýðast lætr;
en mannanna börnum hann allra mest ann.
Guð andar á hvarma þess, sem grætr.

Og frelsarinn varð barn og á jötustrám hann svaf,
því jörðin átti' ei vöggu, sem hann fengi,
og hann er það, sem börnunum beztu hnossin gaf
og blómstrin frá paradísar engi.

Hann smælingjana elskar og býðr vernd og vörð
og vísar oss á gæfuveginn bjarta;
hann stillti sjó og storm, er hann gekk um á jörð,
en ungbörnin vafði' hann sér að hjarta.

Ó, komum, biðjum hann, sem þau börnin að sér tók,
að blessa oss og leiða' í stríði hörðu;
svo lærum líka' að stafa guðs blessuðu bók,
sem blasir við himni á og jörðu.

## Má reiða sig á guðspjallasöguna?

Eftir dr. *F. Godet* í Neuchatel í Sveiss.

Framhald.

Þó að vér nú, að því er þetta síðasta atriði snertir, létum vera að taka tillit til þess, hve algjörlega ósennilegt það er, að maðr sá, er „blés ógnunum og manndrápi gegn lærisveinum drottins", hafi getað haft aðra eins sýn, þá er það þó óneitanlegt, að Páll í 1. Kor. 15 telr þá opinberan drottins, sem hér er um að rœða, allt annars eðlis en hinar ýmsu sýnir, er hann annarsstaðar minnist á í bréfum sínum og líka koma fyrir áðr í Gjörðabók postulanna. Í þessum 15. kap. fyrra bréfsins til Korinþumanna, sem vér aftr og aftr höfum vísað til, er talað um líkamlega upprisu hinna trúuðu, og postulinn styðr þá kenning sína með því, að frelsarinn eftir upprisu sína hafi birzt postulunum og auk þess fjölda annarra lærisveina og þar með einnig sjálfum postulanum. Væri þar að eins um sálarsjón að rœða, þá gæti það með engu móti verið sönnun fyrir líkamlegri upprisu Krists, né heldr verið til styrkingar þeirri von, að vér eigum líka að rísa upp. Þessi opinberan, sem Páll byggir köllun sína til postuladœmisins á, er eftir skoðan hans allt annars eðlis en það, þegar drottinn síðar vitraðist honum í draumum eða andlegum sjónum. Þar sem hann nú setr opinberanir þær, er postularnir segja frá, í röð með þeirri opinberan, er hann sjálfr varð fyrir, þá er auðsætt, að hann telr þessar opinberanir líkamlegar, eins og kirkjan hefir líka æfinlega gjört. Það þarf ekki heldr annað en bera frásögurnar um sýnir, t. a. m. þá er Pétr varð frá sér numinn (Pg. 10, 10 o. s. frv.), saman við sögu guðspjallanna um upprisu drottins, til þess að öllum verði skiljanlegr hinn mikli opinberanamunr, sem hér er um rœða. Ekki dugir heldr að halda því fram eins og Strauss gjörir, að það sé ekki fyr en löngu eftir dauða Jesú og eftir að lærisveinarnir voru komnir til Galílea, að þessar opinberanir hafi komið

fyrir. Því bæði guðspjöllin og bréf Páls taka skýrt fram, að þá er Jesús opinberaðist fyrst eftir upprisuna, þá hafi það verið í Jerúsalem á þriðja degi eftir dauða hans. Frá þessu er eigi unnt að vinda sér. Allt annað mælir líka á móti þeirri getgátu, að opinberanir þessar hafi að eins verið sjónhverfingar. Ímyndunaraflið býr til myndir af því, sem menn vona. En eftir dauða Jesú bjuggust lærisveinarnir alls ekki við því, að hann myndi verða líkamlega uppvakinn, heldr í mesta lagi að eins við því, að drottinn myndi koma niðr af himni í sinni dýrð og láta þá sjá sig. Konurnar gengu vitanlega til grafarinnar til þess að smyrja líkið, og er þær fluttu postulunum hina fyrstu fregn um upprisuna, þá trúðu þeir þeim ekki. Og þar sem tilfinning þeirra og hugsan var þannig, er óhugsanlegt,að þeir af sjálfu sér hafi farið að ímynda sér, að drottinn hafi látið þá sjá sig í líkamanum. Ekkert nema virkilegr ytri atburðr gat látið þessa algjörðu umbreyting verða á hugsunum þeirra.

Þegar sjón og heyrn dregr einhvern á tálar, þá er það yfir höfuð að tala sönnun fyrir því að taugar þess manns eru í veikluðu ástandi. Þótt því yrði nú samsinnt, að svo hefði verið á statt fyrir Maríu frá Magdala eða jafnvel fyrir Páli,þá væri slíkt með öllu óhugsanlegt um annan eins mann og Pétr eða hinn gætna Jakob, bróður drottins, sem drottinn sérstaklega hafði opinberað sig (Lúk. 24, 34; 1. Kor. 15, 6. 8). En einkum verðr þetta óhugsanlegt, þá er um opinberanir fyrir mörgum mönnum á sama stað og tíma er að ræða, eins og þegar drottinn að kvöldi hins fyrsta dags lét hina tólf lærisveina sjá sig, eða þegar hann seinna opinberaðist meir en fimm hundruð bræðrum í einu, sem Páll getr um í 1. Kor. 15, 7. Gegn þessari staðhæfing, sem gengr út frá því, að gjörvallr frumsöfnuðr kristninnar hafi verið andlega truflaðr, minnir Keim með réttu á þá stilling,þann skýrleik og þá heilbrigðu viljastefnu, sem samfara var hinu mikla trúarfjöri hjá stofnendum kirkjunnar. Annar eins siðferðislegr kraftr getr með engu móti samrímzt við veiklað og uppæst ímyndunarafl.

Strauss hefir og dregið fram annað þýðingarmikið atriði. Þessar skyndilegu sýnir hættu jafnskjótt og þær höfðu komið fyrir. Að því eina skifti undanteknu, þá er drottinn opinberaðist Páli postula, hætti hinn upprisni að láta sjá sig fám vik-

um eftir dauða sinn; með uppstigning hans voru opinberanir hans á enda. Hefði þær að eins verið til í ímyndan lærisveinanna, þá er býsna ólíklegt, að fullkomin ró og stilling hefði allt í einu hjá þeim getað komið í staðinn fyrir trúarvingls-truflan þeirra, enda er örðugt að sjá, hvað það gæti verið, sem hefði átt að lækna þá af þeirri truflan. það er annars söguleg reynsla, að trúarvingl getr haldið áfram svo árum skiftir, og jafnvel heilan mannsaldr. *Montaninga*-uppþotið á annarri öld stóð yfir í fimmtíu ár; trúarvingl *Camisarda* (1686—1715) og *Janseninga* á átjándu öld hélzt líka lengi. Í Jerúsalem og Galíleu komu á sex vikna tíma fyrir sjö eða átta opinberanir, og svo er allt búið. Til þess að unnt væri að gjöra grein fyrir þessum opinberanum sálarfrœðislega, þá hefði hin trúarlega œsing, eftir að hún hafði útbreiðzt frá einum manni til tveggja, frá tveim til tólf og því næst hrifið með sér fimm hundruð manns, orðið að hafa náð til allra trúaðra með sívaxanda styrk eftir því, sem þeir þeir urðu fleiri, er fyrir truflaninni urðu.

Væri það satt, að upprisa Jesú sé ekki annað en heilaspuni lærisveinanna, þá hlyti líkami Jesú að hafa haldið áfram að liggja í gröfinni. Samkvæmt frásögu guðspjallanna, sem í þessu atriði ber saman við lögin rómversku, var líkami drottins fenginn í hendr vinum hans, og gat hann þá trauðla horfið án vitundar og vilja lærisveinanna. Auðvitað er, að Gyðingar hafa eigi tekið líkið úr gröfinni; þeir vildu einmitt, að það væri þar kyrrt, svo það gæti verið til sönnunar því, að spádómarnir um upprisuna hefði verið markleysa; og þeir hefði víst seinna ekki látið vera að vísa mönnum á líkið í gröfinni til þess með einu rothöggi að gjöra út af við hina postullegu prédikan um upprisu drottins. Lærisveinarnir hlyti þá sjálfir að hafa tekið líkið og falið það; með því móti hefði þeir af ásettu ráði gjört sig seka í svikum; en að halda slíku fram er nokkuð, sem engum getr í alvöru til hugar komið.

Vér verðum enn að geta um eina merkilega getgátu, sem sumir biblíuskýrendr frá seinni tíð eins og þeir Keim og Schultz hafa gripið til út úr vandræðum, er þeir hafa séð, að sannanir þær,er vér höfum fyrir áreiðanlegleik upprisu-undrsins, voru sterkari en svo, að þeim yrði algjörlega hrundið. þeir játa, að eigi sé unnt að fara hlutdrœgnislaust með sögu þá, sem hér

er um að rœða, nema því að eins að viðrkennt sé, að opinberanir hins upprisna styðjist við einhvern virkilegleik. Og líta þeir þá svo á, að eftir dauða sinn hafi Jesús í raun og veru látið lærisveina sína sjá sig, en reyndar að eins á andlegan hátt; hann hafi að eins birzt þeim sem andi. Frá himni ofan hafi hann beinlínis haft áhrif á sálir þeirra, og fyrir þau áhrif hafi þeir sannfœrzt um það, að hann lifði í guði og hjá guði og hefði vald yfir öllu. Og út af þessari sálarsjón hafi svo lærisveinarnir ímyndað sér, að Jesús væri í bókstaflegum skilningi upprisinn og hefði opinberazt þeim líkamlega.

Með þessari skýringartilraun er þá út úr vandræðum aftr um eitt fótmál horfið tilbaka í áttina til trúarinnar á guðspjallasöguna. Hinni yfirnáttúrlegu orsök verðr eigi lengr neitað; en til þess að komast hjá því að viðrkenna líkamlegt undr er því haldið fram, að undrið hafi gjörzt í andans heimi. En lengra verðr að hverfa til baka, ef duga skal. það fæst á þennan hátt engin úrlausn á þeirri spurning, hvað orðið hafi af líkama Jesú. þó að Jesús eftir dauða sinn í anda opinberist lærisveinum sínum, þá getr líkami hans fyrir þá opinberan ekki horfið burt úr hinni kyrrlátu gröf. Lærisveinarnir hefði þó sannarlega ekki með líkið í gröfinni fyrir augunum getað farið að ímynda sér, að drottinn hefði líkamlega birzt þeim. Svo þessi úrlausnartilraun dugir jafn-lítið og þær, er áðr hefir verið frá skýrt. Og er þá sýnt, að svo framarlega sem hér er ekki að rœða um svik frá hálfu postulanna, þá hlýtr vitnisburðr guðspjallanna um upprisu Jesú að vera áreiðanlegr. það, sem merkilegast er í þessari kenning Keims, er þó það, að lærisveinarnir hafi villzt á því, er Jesús lét þá á algjörlega andlegan hátt verða fyrir áhrifum og gjört úr þeim líkamlega opinberan. því að það, sem Lúkas (24, 37—39) segir, er þar þvert á móti, þar sem hann tekr fram, að lærisveinarnir hafi ímyndað sér, að þeir sæi anda, en Jesús hafi þá með öllu móti reynt að sannfœra þá um líkamlega návist sína: „Skoðið hendr mínar og fœtr, að það er eg. þreifið á mér og gætið að; því að andi hefir hvorki hold né bein eins og þér sjáið mig hafa.“ Og því næst matast hann frammi fyrir augum þeirra til þess að taka frá þeim allan efa. Hafi þetta að eins verið andi, þá hefir sá andi ekki viljað, að hann væri álitinn

það, sem hann var. Undarleg framkoma óneitanlega af himneskri veru, sem Keim þó hefir fyrir satt að Jesús hafi verið!

Aðalmótbáran gegn skýring Keims á upprisu-undrinu verðr þó æfinlega það, að með því móti missir upprisa Jesú, stœrsti viðburðr í sögu mannkynsins, sína eiginlegu þýðing. Hún er fyrst og fremst sigr yfir dauðanum, sem er laun syndarinnar. Eftir að Kristr með lífi sínu hafði yfirunnið syndina og með dauða sínum friðþægt fyrir hana, reis hann upp frá dauðum, til þess svo sem á sýnilegan hátt að bjóða hverjum einstökum syndara réttlæti sitt og veita öllum trúuðum trygging fyrir því, að þeir skyldi frelsast frá dauðanum.

þessi þýðing Jesú upprisu verðr að engu, ef henni er neitað í líkamlegum skilningi og hún skoðuð eins og anda-opinberun, nærri því eins og um vofu væri að rœða. Upprisa Jesú er meira en það, sem Keim vill láta hana vera, ellegar hún er sama sem ekki neitt. Svo framarlega sem vér megum trúa vitnisburði postulanna og jafnframt halda því föstu, að fyrir engum sögulegum atburði er unnt að leiða áreiðanlegri rök en upprisu Jesú, þá er hún innsiglið á vitnisburði hans um sjálfan sig og staðfesting hinnar makalausu æfisögu hans, sem er svo ólík allra annarra manna. Hinir þrír guðspjallamenn boða oss Jesúm eins og hinn fyrirheitna Messías (Matteus), eins og hinn guðmannlega frelsara (Markús), og eins og hinn annan Adam og hinn elskulega mannsins son (Lúkas); þeir lýsa honum hver með öðrum eins og hertoga lífsins, er hafði þá köllun að lyfta mannkyninu upp til sjálfs sín. Og þennan vitnisburð guðspjallamannanna um Jesúm staðfestir upprisa hans á guðdómlegan hátt.

---

En til þess að komast til fullkomins skilnings á þýðing guðspjallssögunnar er nauðsynlegt að athuga enn þá nákvæmar, hvernig mannkyninu fyrir komu Krists í heiminn verðr unnt að ná endimarki ákvörðunar sinnar. Og getr fjórða guðspjallið þar hjálpað oss.

Rit þetta er til vor komið úr fornkirkju elztu tíma sem verk þess lærisveins, er Jesús elskaði öllum öðrum fremr, og allt fram að lokum átjándu aldar kom engum í hug að draga þann virðulega uppruna þess í efa. En þá fóru nokkrir biblíuskýrendr að vefengja ritvissu þess, og á þessum tíma er sú skoð-

un býsna almenn, að það sé „óekta“.[1] Vér skulum rannsaka ástœður þær, sem þessir menn bera fyrir skoðan sinni. Sumir hafa það fyrir satt, að guðspjallið sé í letr fœrt af einhverjum frægum kristnum manni með heimspekilegri menntan á annarri öld. En sagan er á móti slíkri getgátu. Sé því haldið fram, að ritið sé samið á fyrra helmingi aldarinnar, þá er þess að gæta, að margir kennendr og biskupar, sem persónulega höfðu þekkt Jóhannes postula, voru enn þá uppi, einkanlega í Asíu hinni minni. Úr hópi þeirra skulum vér að eins nefna Polykarp frá Smyrna. þessum mönnum hlaut þó vafalaust að vera kunnugt um það, hvort Jóhannes hafði ritað nokkurt guðspjall ellegar ekki. Ef hann hafði ekkert þvílíkt rit samið, þá er þó vissulega óhugsanlegt, að ritverk eftir annan mann, sem látið var bera hans nafn, og það svo stór-merkilegt ritverk, hefði algjörlega mótmælalaust verið viðrkennt eins og það væri eftir Jóhannes postula af öllum kennendum og söfnuðum í því landi. En ef því hins vegar er haldið fram, að guðspjallið sé ritað á síðara helmingi aldarinnar, þá þarf að gera grein fyrir því — og það er enginn hœgðarleikr —, hvernig rit, sem svo seint varð til, og þó að mörgu leyti hafði ýmislegt nýtt inni að halda, og yfir höfuð var ólíkt hinni almennu guðspjallssögu, sem hinir þrír guðspjallamenn höfðu fœrt í letr, gat fengið viðrkenning eins og postullegt væri án þess að nokkur grunur eða nokkur mótmæli gegn því kœmi fram. þetta verðr enn þá ólíklegra, ef munað er eftir því, að á þeim tíma voru margir flokkar innan vébanda kirkjunnar, sem börðust hver á móti öðrum: *Ebjóningar*, sem í öllum greinum bundust lögmáli Gyðinga, *Marcíonslærisveinar*, sem risu öndvegir upp á móti lögmálinu, *Gnóstíkar*, sem bjuggu til úr kristnum lærdómi undarlega heimsspeki, og *Montaningar*, sem voru trúarvinglsmenn og iðruuarprédikarar. Öllum þessum sundrleitu flokkum kom saman um að nota þetta

[1]) Síðan ritgjörð þessi kom út eru all-mörg ár liðin, og á þeim tíma hafa komið fram svo sterkar sannanir fyrir ritvissu guðspjallsins, að vefengingar þessar eru nú nálega alveg þagnaðar. Með fundi hins *apokryfiska* Pétrs-guðspjalls, sem frá hefir áðr verið skýrt í blaði þessu (*Sam.* VIII, bls. 42—44), kom það t. a. m. greinilega í ljós, að Jóhannesar guðspjall er fullkomlega nógu gamalt til þess að geta verið eftir postula þann, er kirkjan frá alda-öðli hefir talið höfund þess. Eins og nú er komið eru jafnvel enn sterkari sannanir fyrir ritvissu Jóhannesar guðspjalls en hvers sem vera skal af hinum guðspjöllunum. Ritst. *Sam.*

guðspjall eins og postullegt frumrit, alveg á sama hátt og móðurkirkjan, sem þeir að nokkru leyti eða algjörlega höfðu slitið sig frá.

það yrði erviðast að gjöra grein fyrir því, að ritið er eins og það er, svo framarlega sem það væri „ókta." þeir, sem ekki telja Jóhannes postula höfund þess, kannast þó við, að það sé eitthvert hið mesta og göfugasta verk, sem mannlegr andi hefir framleitt. þeir kannast allir við, að aldrei hafi nokkrum rithöfundi tekizt að lýsa sögulegum atburðum eða eðliseinkunnum einstakra manna með meiri nákvæmni en þar er gjört. Og enn fremr játa þeir, að enginn hafi enn tekið höfundi rits þessa fram í heilagri djúpskyggni, einföldu og látlausu orðalagi eða háum hugsunum. Höfundrinn hlýtr að sjálfsögðu að hafa verið einhver einkennilegasti og háfleygasti andi, sem mannkynssagan veit af að segja; og svo ætti þessi stjarna af fyrstu stœrð að hafa tindrað á söguhimni annarrar aldar án þess nokkur maðr tœki eftir henni og án þess að hún léti nokkrar aðrar menjar eftir sig en þetta eina rit? Vér þekkjum fremstu mennina og beztu rithöfundana á tímabilinu næst á eftir postulaöldinni: Klemens, Jústínus píslarvott, Polykarp, Ignatíus, o. fl, Vér eigum að nokkru leyti rit þeirra enn þá og metum þau mikils. En eins og pýramídarnir á Egyptalandi gnæfa upp yfir kofa *fellah*-anna, sem búa þar á sama svæðinu, eins rís hið umrœdda guðspjall langt um hærra en rit þessara manna, sem, enda þótt í bezta tilgangi sé rituð, öll eru fremr laklega af hendi leyst. Er hugsanlegt, að annað eins há-gáfað mikilmenni hefði ekki tekið neinn þátt í hinni áköfu andlegu baráttu sinnar tíðar, hefði alla æfi haldið áfram að vera hinn mikli óþekkti andi mitt á meðal allra kirkjufeðranna og safnaðanna, sem voru í kringum hann, og að svo hefði rit hans — enginn veit hve nær eða hvernig — allt í einu komið fram úr myrkrinu og eftir samkomulagi milli biskupa og safnaða verið eignað Jóhannesi postula? Slík ímyndan er þvert á móti öllum sögulegum líkindum.

Hvað er það þá, sem fœrt er fram til stuðnings þessari ímyndan, að hið umrœdda guðspjall sé ekki eftir Jóhannes?

það er sagt, að Jóhannes, sem samkvæmt því, er frá sé skýrt í 2. kap. Galatabréfsins, hafi andspænis Páli varið gildi hins

gyðinglega helgisiðalögmáls, geti með engu móti verið höfundr að riti, sem eins og guðspjall þetta sé svo andlegt og hátt upphafið yfir þá þröngsýnu lögmálsstefnu, er sú vörn beri vott um.

En ef vér nú hlutdrœgnislaust lesum frásögn Páls um það, hvað honum og postulunum hafi á milli farið við tœkifœri það, sem við er átt, hlýtr oss óðar að verða ljóst, að hinir þrír aðalfulltrúar safnaðarins í Jerúsalem, þeir Pétr, Jakob og Jóhannes, eiga ekkert sammerkt við „falsbrœðr“ þá, er Páll sakar um það, að þeir leitist við að takmarka sem mest kristilegt frelsi og leggja á menn þrældómsok lögmálsins. Í 6. versi kapítulans kemst hann svo að orði: „Mig skiftir engu, í hversu miklu áliti þeir eru, sem helztir eru haldnir (guð fer ekki að mannvirðingum), en hinir helztu hafa engu við minn lærdóm bœtt“, það er að segja við lærdóm postulans, eins og hann hafði áðr frá honum skýrt (samanber 2. versið). Og því næst bœtir hann því við (í 7. og 9. v.), að eftir að hinir þrír, sem álitnir voru máttarstólpar kirkjunnar, hafi heyrt sig gjöra grein fyrir kenning sinni, þá hafi þeir viðrkennt sig sem þann, er guð hefði trúað fyrir því að boða heiðingjum fagnaðarerindið, á sama hátt og hann hafði trúað þeim hinum fyrir því að prédika það fyrir Gyðingum. Hvernig gæti Páll hafa komizt þannig að orði, ef þeir þvert á móti undangenginni prédikunar-aðferð hans hefði reynt til að neyða lögmálinu upp á hann? Sjálfr segir hann hiklaust: „því að sá, sem hafði eflt Pétr til hans postulaembættis meðal hinna óumskornu, hefir eins eflt mig meðal heiðinna þjóða“ (8. v.). Hann kannast því við það, að hinir þrír postular hafi jafnt og hann sjálfr prédikan sína frá guði, — sami postulinn, sem rétt áðr í sama bréfinu segir: „En þó að vér, eðr engill frá himni boðaði yðr náðarlærdóminn öðruvísi en eg hefi kennt yðr, hann sé bölvaðr“ (Gal. 1, 8.). Enn fremr er frá því skýrt, að hinir þrír postular hafi rétt Páli og Barnabasi bróðurhönd. Skilningr Páls á fagnaðarerindi kristindómsins getr því með engu móti hafa verið þvert á móti skilningi Jóhannasar. Þar sem hinir tólf sjálfir fyrir sína eigin persónu bundust lögmálinu, þá gjörðu þeir það af kærleiksfullri lempni og virðing fyrir sögu þjóðar sinnar, þangað til guði þóknaðist að önnur ráðstafan yrði gjörð. Auk þess urðu þeir, þar sem þeir höfðu fengið köllun til að vera postular meðal Gyðinga, framvegis að gæta lögmálsins hið ytra

til þess ekki að nauðsynjalausu að vekja hneyksli eða gefa nokkurt ásteytingarefni. Sömu reglu fylgdi Páll sjálfr, er eins stóð á fyrir honum. Hann vottar um sjálfan sig í 1. Kor. 9, 20: „Á meðal Gyðinga hefi eg verið Gyðingr, svo eg áynni Gyðinga, hjá þeim, sem undir lögmálinu eru, hefi eg verið eins og undir lögmálinu, þó eg sé ekki undir því, til þess eg áynni þá, sem undir lögmálinu eru“. Hefði hinir tólf álitið slíka lögmálsgæzlu sem þá, er hér er um að ræða, nauðsynlega til sáluhjálpar, þá hefði þeir hvað sem það hefði kostað, hlotið að gjöra hana að ófrávíkjanlegri skyldu fyrir heiðingja. En nú verðr það ljóst af 2. kapítula Galatabréfsins, að þeir gjörðu þetta ekki. Og fást þannig úr þessari átt engar minnstu líkur fyrir því, að Jóhannes hafi eigi getað ritað guðspjallið.

(Niðrl. í næsta blaði).

## 2. sálmr Davíðs

Eftir séra Valdemar Briem.

(Lag: Æ, vissir þú, sem viðjar dregr synda.)

Hví æðið þér svo, heimskir heimsins lýðir?
Hví hamizt þér svo drottins smurða gegn?
þar kemr að, þér kannizt við um síðir,
að kongr sá var yðr þó um megn.
það ráð er eins og hverfult hjól,
að hugsa sér að fella drottins stól.

þér, heimsins kongar, höfðingjar og jarlar,
þér himins drottni sjálfum berjizt mót.
Hann ráðagjörðir yðar brýtr allar,
og yðar máttr stoðar ekki hót.
Að barnaskap þeim brosir hann,
er börnin ætla sér að herja' á skaparann.

Guð sjálfr smurðan soninn kæra hefir
og sett hann yfir jarðarríkin öll;
að erfð hann honum allan heiminn gefr,
og öllu stjórnar hann frá Síons höll.
Ef ríki hans er herjað á,
hve hátt hann reiðir veldissprotann þá!

Ó, aumir menn, þér yðr segjast látið,
í auðmýkt lútið dýrðarherra þeim;
hann yfirkonung yðar bljúgir játið,
er öllum ræðr hinum mikla geim.
Ó, heimsins drottnar, þjónið þér
sem þegnar konunginum, sem á himnum er.

Ó, varizt þér að reita hann til reiði,
því reiði hans ei borið getið þér;
hann getr ríki yðar lagt í eyði;
en aldrei ríki hans né máttr þver.
Ó, hversu jafnan sæll er sá,
er setr von og traust hinn œðsta drottin á!

## Sunnudagsskólinn.

(Aðsent).

Það má merkilegt heita, hve lítið opinberlega hefir verið minnzt á sunnudagsskóla vor Íslendinga hér í landi, í samanburði við það, hve mikið hefir verið rœtt og ritað um prédikunaraðferð og kenning presta, bæði hér vestanhafs hjá þjóðflokki vorum og eins heima á Íslandi.

Sunnudagsskólinn er þó sannarlega þess verðr, að eitthvað sé um hann sagt; því hann er sú blómlega og fagra grein, sem hefir dregið til sín eða hefir í sér fólgið svo mikið lífs-afl, að ef hún væri særð því sári, sem næði að veikja hana, eða væri hún sniðin af, myndi hið mikla tré, guðs ríki eða kristileg kirkja, um leið verða fyrir hryggilegu og óbœtanlegu tjóni. Það er marg-viðrkennt af ýmsum mestu og beztu mönnum þessa lands, að sunnudagsskólarnir eigi einhvern mestan þátt í því að bœta siðferðið og glœða trúarlífið, varðveita hina uppvaxandi kynslóð hinnar ameríkönsku þjóðar frá siðaspilling. Og þó er þessum skólum eflaust mjög víða talsvert ábótavant; þeir eru vafalaust margir hverjir all-fjarri því, sem þeir ætti að vera og gæti verið. — En það voru ekki sunnudagsskólar ensku-talandi íbúa landsins, sem eg ætlaði að tala um, heldr vorir eigin íslenzku sunnudagsskólar.

Hvað líðr þá sunnudagsskólunum íslenzku hér hjá oss? Af því svo mikilsvert málefni á í hlut, mætti við því búast, að til

væri sunnudagsskóli í hverjum einasta söfnuði kirkjufélags vors. Því miðr er þó ekki svo langt komið. Samkvæmt skýrslu um sunnudagsskólahald fyrir árið næst á undan síðasta kirkjuþingi, sem stendr í *Sam.* VIII., bls. 95, var það að eins í 11 söfnuðum þeirra 22, er í kirkjufélaginu standa, að sunnudagsskólum var haldið uppi. Og tala ungmenna í þessum 11 söfnuðum, sem um lengri eða skemmri tíma af árinu höfðu gengið á sunnudagsskóla, var að eins 813. Er það lítið af öllum íslenzkum börnum eða unglingum hér í landinu. Og þó er eg viss um, að sunnudagsskólar vorir, þessir fáu, sem verið hafa, hafa gjört ómetanlega mikið gott. Að ungmenni vor eru þó það, sem þau eru, þrátt fyrir hina hættulegu byltingastefnu tímans og ýmsar utan að komandi freistingar, það þakka eg fyrir mitt leyti sunnudagsskólunum fremr öllu öðru.

Það er auðvitað, að börnin hafa tækifæri eins og hinir fullorðnu til að heyra prédikanir presta, en þau hafa ekki nærri því eins mikið gagn af því, eins og þeir, því í kirkjunni talar prestrinn yfir höfuð til fullorðna fólksins, en beygir síðr kenning sína eftir barnshjartanu. Líka er það satt, að börnin flest eiga heimili, foreldra og aðstandendr, sem elska þau og vilja gjöra þau að góðum og rétt hugsandi mönnum. En þetta hrekkr lítið, þar sem svo mikils þarf með. Enda er líka, eins og allir vita, engu meira ábótavant á meðal mannanna sona og dætra heldr en barnauppeldinu.

Eg fyrir mitt leyti hefi mjög mikið álit á sunnudagsskólunum, og óska eg af heilum hug, að þeir megi halda áfram að aukast og dafna, og að blómgun þeirra dvíni aldrei. En vel get eg viðrkennt, að þeim sé enn í mörgu ábótavant hjá oss. Það, sem eg hefi einkanlega heyrt sett út á sunnudagsskóla vora af þeim Íslendingum sjálfum, sem í kirkju vorri standa, er ekkert viðkomandi trúarbrögðunum, sem þar eru kennd. Það heyrist aldrei kvartað um það, að nokkrir kennendr í sunnudagsskólum vorum fari þar með nokkuð óheilsusamlegt eða víki í neinu frá lærdómum heilagrar ritningar. Aftr á móti heyrast stundum kvartanir um það, að börnin læri svo sem ekki neitt á skólum þessum, og enn fremr um það, að þar vanti nœga reglu og stjórn.

Að því er þá kemr til þeirrar aðfinningar, að börnin læri ekkert á sunnudagsskólunum, þá er það svo mikil fjarstœða, að

undran gegnir, að nokkur maðr skuli gjöra sig seka í henni. En til alls eru ástœður, og ástœðan til þessa er ókunnugleiki manna á sunnudagsskólunum.

það er að mínu áliti dœmalaust slæmt, hve sjaldan fullorðið fólk kemr á sunnudagsskóla vora til að hlusta á kennarana og börnin. Og verst af öllu, að foreldrar og aðstandendr barnanna skuli nærri því aldrei sjást þar.

Á sunnudagsskólum ensku-talandi manna hér í landinu er ekki fágœtt að sjá fullorðið fólk, sem gengr á sunnudagsskóla, beinlínis til að njóta tilsagnar í guðs orði og ná enn þá meiri kristindómsþekking en það gat fengið í œsku. þessum mönnum þykir engin minnkun í því á fullorðinsárunum að njóta á sunnudagsskólanum sama unaðarins af guðs orði, sem þeir nutu þar meðan þeir voru börn. Einnig er altítt að sjá fólk grátt fyrir hærum, bæði karla og konur, sitja sem gesti á sunnudagsskólanum, hvern sunnudaginn eftir annan, í því skyni að hlusta á barnabörnin sín eða börn vina sinna, og kynna sér, hvað þeim er sagt af kennendum þeirra. þetta er því miðr mjög á annan veg hjá oss Íslendingum, því eins og áðr var sagt, sést ákaflega sjaldan nokkur fullorðinn maðr á sunnudagsskólum vorum, að undanskildum kennendunum, hvorki foreldrar barnanna né aðrir. Og afleiðingin af því er, eins og við má búast, áhugaleysi almennings fyrir hinu góða málefni, sunnudagsskólanum, og stundum jafnvel annað verra. Engin undr væri það, þótt slíkt áhugaleysi hinna fullorðnu, einkanlega aðstandenda barnanna, yrði til þess að freista ungmennanna til samskonar sinnuleysis. Engu að síðr ber þó furðanlega lítið á því, að ungmenni þau, sem á sunnudagsskólana ganga, falli fyrir þeirri freisting. Sunnudagsskólar vorir eru yfir höfuð miklu betr sóttir en búast hefði mátt við, ef tekið er tillit til þessara kringumstœðna.

Á þeim skólum, sem eg þekki til, þekki eg ekki nokkurt barn, ef það annars fær að ganga á sunnudagsskóla, sem ekki gengr þangað stöðugt og af fúsum vilja og eins og af löngun til að vera þar. Eg man eftir dreng og stúlku úr mínum „klassa“, sem um nokkurn tíma urðu veik, og kom eg heim til þeirra hvors í sínu lagi á mánudögum, meðan þau voru veik. Spurðu þau mig þá oft með tárin í augunum, hvað eg héldi þau myndi liggja lengi, og hve nær þau myndi næst geta komið á sunnu-

dagsskólann. Einnig spurðu þau mig oft um lexíuna og sálminn, sem „klassinn" þeirra hefði haft síðasta sunnudag. Þannig eru sjálfsagt mörg fleiri dœmi til, sem lýsa lifandi áhuga og löngun hjá börnunum til að vera á sunnudagsskóla, hvar sem sú löngun kann að eiga rót sína. Rótin er víst annars fremr öllu guðs orð, sem vitanlega hefir svo mikið aðdráttarafl fyrir barnssálina. Börnin, sem ganga á sunnudagsskóla,eru nú heima alla vikuna og ganga að sínum vanalegu störfum, með sínu barnslega og breyzka eðli; eru þau þá oft ógegnin og óþæg, og tala, ef til vill, ljótt orð stundum. Þetta er nú mjög leiðinlegt, og meira en óskandi, að það gæti verið á annan veg. En nú kemr hin hryggilega afleiðing af því, hve ókunnugt fullorðna fólkið er sunnudagsskólunum, eða því, hve sjaldan foreldrar og aðstandendr barna koma þangað. Þegar fullorðnir, hvort sem það eru foreldrar eða fjærskyldir, komast að því, að eitthvert barn talar eitthvað ljótt, gegnir ekki nógu fljótt, eða yfir höfuð að tala breytir eitthvað öðruvísi en það ætti að breyta, þá er einatt viðkvæðið þetta: „Það er auðséð, að barnið að tarna gengr á sunnudagsskólann! — Það er naumast, það lærir þar fallegt! — Það er dáfallegt, sem þér, vesalingr, er kennt þar!" o. s. frv. En svo er ekki þar með búið. Það, sem verst er af öllu og vafalaust oft orsök til þess, að kennarinn getr ekki gjört barnið betra en það er, er það, þegar foreldrar eða aðrir aðstandendr fara á einhvern hátt í áheyrn barnsins að ófrægja kennara þess eða hallmæla honum. Það er mjög svo eðlilegt, að barnið eða ungmennið fái við þetta og annað eins vantraust á kennara sínum, og því orði og lærdómi, sem hann hefir því að fœra. Eg hefi margoft heyrt foreldra og aðstandendr ungmennanna tala svo ógætilegum og óvirðulegum orðum um sunnudagsskólakennara barna þeirra, bæði karla og konur, að mér hefir meir en sárnað, ekki svo mjög fyrir hönd kennaranna, heldr öllu fremr vegna sunnudagsskólans sjálfs, foreldranna og barna þeirra, sem eg við slík tœkifœri hefi séð—allt eftir því hvernig hvert einstakt barn hefir verið innrœtt — ýmist standa blóðrjóð, með sýnilegum votti þess, að þau hefði fundið til, annaðhvort fyrir hönd kennarans eða málefnisins, ellegar með leiftrandi augum og sigri hrósandi svip, sem eins og vottaði ánœgju þeirra yfir því, hve miklu betr þau stœði að vígi en kennarar þeirra. Hið óeigingjarna

starf sunnudagsskólakennenda er alloft af aðstandendum barnanna launað á þennan hátt. En vel er þó þessu unandi fyrir kennara, ef þeir af framferði barnanna sjálfra fá sýnilegan vott þess, að starf þeirra er ekki árangrslaust. Enda mun það aldrei bregðast, að þessi vottr fáist, svo framarlega sem kennarar, enda þótt ófullkomnir kunni að vera, vinna verk sitt með samvizkusemi, með bœn til drottins og eins og fyrir hans augliti.

Að því er þá aðfinning snertir, að almennt vanti nógu góða reglu og stjórn á sunnudagsskólum vorum, þá er því miðr hætt við því, að þar hafi menn nokkuð til síns máls. Það er lífsspursmál fyrir sunnudagsskóla, að góðri reglu sé þar haldið uppi. Hver einstakr kennari verðr að hafa vakandi auga á sínum „klassa“, og hafa vit eða lag á að kenna honum að hlýða og halda huga barnanna föstum við það efni, sem hann er með að fara. Kennarinn verðr að kappkosta að innrœta hverju barni fyrir sig þann hugsunarhátt, að það fyrirverði sig að gjöra sig sekt í nokkru ósœmilegu á þeim stað og tíma, svo sem hnippingum, ólátum eða yfir höfuð nokkurri ókyrrð. Sá, sem ekki getr haldið reglu í hópi barna þeirra, sem hann á að segja til, á ekki sunnudagsskólakennari að vera. Og eins er sá maðr óhœfr til að eiga við sunnudagsskólakennslu, sem ekki sí og æ vakir yfir því, að hvert einstakt barn í „klassanum“, sem hann er yfir settr, taki vandlega eftir því sem hann er með að fara.

Það sýnist eins og sumir álíti, að sunnudagsskólinn eigi að geta umskapað þau börn, sem á hann ganga, að því er siðferði þeirra snertir, og að foreldrar eða aðstandendr unglinganna sé lausir við alla ábyrgð á kristindómsuppfrœðslu þeirra, ef þau einungis eru send á sunnudagsskóla. En þetta er rammskökk skoðun. Ábyrgðin á hinu andlega lífi barnanna er æfinlega foreldranna; sunnudagsskólinn getr þar að eins verið til stuðnings. En sá stuðningr er auðvitað mjög þýðingarmikill, ef skólinn er í lagi. En grundvöllinn verða faðir og móðir dagsdaglega að leggja sjálf, með uppfrœðslu á heimilinu, bœnum með börnunum, áminningum og aga. Það er býsna fjarstœtt, að ímynda sér, að það barn, sem daglega heyrir heima hjá sér illmæli, blótsyrði, ósiðlegt hjal, deilur um trúarbrögðin og guðlastanir, verði trúað og siðferðisgott, þótt það jafnvel fengi þá fullkomnustu kennslu stutta stund á sunnudögunum. Og það mun

þó reynast satt, að það eru einmitt þeir foreldrar, sem mest vanrækja uppfræðslu og uppeldi barna sinna, sem heimta mest af sunnudagsskólanum, kasta allri ábyrgðinni á hann, og tala svo illa um kennarana fyrir það, að þeir ekki í skólanum uppræti allt illgresið, sem þau sjálf eru búin að sá á undangenginni æfi barnsins.

Þegar heimilin og sunnudagsskólinn styðja hvort annað með uppfræðslu sinni og aga, þá, en ekki fyr, má búast við þeim árangri, að þekkja megi úr þá unglinga, sem stöðugt hafa gengið á sunnudagsskóla, af siðgæði þeirra, kirkjurækni, kristilegri alvöru, og öðru því, sem kristinn mann og konu getr prýtt.

bm.

„Vorvísur“ þær eftir Ingemann, sálmaskáldið danska, sem *Sameiningin* kemr með í þetta sinn í þýðing eftir séra Mattías Jokkumsson, eru áðr til í íslenzkri þýðing eftir séra Stefán heitinn Thórarensen. Er sú eldri þýðing ásamt laginu tvírödduðu prentuð í „Söngkennslubók fyrir byrendr“ eftir Jónas Helgason, 3. hefti (Rvík 1887). Fyrirsögn ljóða þessara er þar „Morgun“.

---

Hr. *Sigrbjörn Sigrjónsson*, 164 Kate St., sendir út "Sameininguna".

---

**Páll S. Bardal**, 430 Ross Ave., er innköllunarmaðr fyrir *Sam.*

---

Lexíur fyrir sunnudagsskólann; annar ársfjórðungr 1894.

10. lexía, sunnud. 3. Júní: Páskahátíð fyrir skipuð: 2. Mós. 12, 1—14.
11. lexía, sunnud. 10. Júní: Förin yfir Rauða hafið: 2. Mós. 14, 19—29.
12. lexía, sunnud. 17. Júní: Bölvan ofdrykkjunnar: Orðskv. 23, 29—35; eða: Drottins smurði: Sálm. 2.
13. lexía, sunnud. 27. Júní: Yfirlit.

---



---

„SAMEININGIN“ kemr út mánaðarlega, 12 nr. á ári. Verð í Vestrheimi: $1.00 árg.; greiðist fyrir fram. — Skrifstofa blaðsins: 704 Fifth Ave. N., Winnipeg, Manitoba, Canada.—Útgáfunefnd: Jón Bjarnason (ritstj.), Páll S. Bardal, Friðrik J. Bergmann, Hafsteinn Pétrsson, N. Stgr. Þorláksson, Magnús Pálsson, Jón Blöndal.

PRENTSMIDJA LÖGBERGS — WINNIPEG.